# Kafli úr æfisögu prests nokkurs.

Fyrir stuttu kom í landspláts nokkurt úngur stúdent, sem á háskólanum hafði lagt fyrir óðal biblíu sína, og gleymt barnalærdómi sínum, en í þess stað feingið sér þær bækur, sem fullar voru af speki hinnar nýu vantrúar. Það tók hann mikið sárt, að hann hjá lendum sínum enn nú fann að minnsta kosti nokkra historiska trú til bibliunnar lærdóma; því sá loflegi landsherra hélt sér við þá fastlega, og leyfði ekki, að nokkur villulærdómur væri opinberlega kenndur. En því meir uppkveiktist vandlætiseldur þessa únga fræðimanns, og hann vogaðist því til að kveikja þann fyrsta kyndil þar í héraði, nefnil. ritling, íklæddan historiskum búníngi, sem hann þó hafði til láns tekið hjá öðrum rithöfundi. Þetta rit lét hann færa inn í prentað blað, sem gekk þar um kríng, og sem allir, bæði af æðri og lægri rod, lásu. Ritið var samið með álitsfaguri sérvitsku og útgefarinn hlakkaði því með gleði til þess, að allir, bæði landsherrann sjálfur, andlegir og veraldlegir embættismenn, borgarar og bændur, mundu af lestri þess sannfærast um: að öll hjartans órósemi, iðran fyrir framdar syndir, hversu stórar sem sýndust, sömuleiðis allir þánkar um dauðann, Guðs dóm og eilífðina, væru

ekkert annað enn verkanir af veikum maga, þykkvu blóði, skorti nauðsýnlegrar hreifingar og óhollri fæðu; svo ef menn vildu allt þetta forðast, og einkum það, að drekka kaffi, gætu þeir feingið sanna sálar-rósemi. Svoleiðis gekk þá ritlingur þessi, saminn í heimspekis og læknis-vísindalegum anda, fagurlegum og tælandi búníngi, í kríng, bæði í borginni og á landsbygðinni, til að verða fólkinu — sagði höfundurinn — bæði til upplýsíngar og huggunar. Eitt kvöld, þegar sá úngi spekíngur hafði ekki mikið að gjöra, nema dáðst að og gleðja sig yfir þessu sínu riti, kveikti hann í pípu sinni, og kom honum þá í hug, að taka sína rikugu bibliu fram, í því áformi, að leita einnig í henni að ástæðum fyrir kenníngu sinni, þar hann hugsaði, að hann með orðum hennar, nefnil. vors Frelsara og postula hans, mundi líka geta sannað gyldi þess meðals og máta til að öðlast samvitskurósemi, er hann í ritlingnum ráðlagt hefði; því gæti hann það, yrði það vissulega hið besta meðal, til að útrýma þeirri fast innrættu bibliutrú hjá almúganum, sem hann áleit ránga og afvegaleiðandi. Hann leitaði þess vegna í bibliunni að þeim greinum, sem höndla um rósemi sálarinnar, og þá komu honum fyrst fyrir augu, þessi alkunnu Frelsarans orð (Matth. 11, 28): "komið til mín, allir þér, sem erfiði drýgið og þúnga eruð þjáðir, og munuð þér hvíld finna sálum yðar!" Þegar hann las þessi ótvíræðu orð Frelsarans, varð honum svo sem bilt við fyrst í stað; síðan las hann nokkur vers fleiri, til að sjá, í hverju samanheingi þessi orð töluð væru; fann hann þá þessi orð Jesú á undan: "eg prísa þig Faðir, að þú hefur hulið þetta fyrir spekíngum og vitríngum, en

hefur opinberad þad smælíngjum!" Þessi ord fundust honum enn nú myrkvari; því vitrir og lærdir menn hljóta þó — hugsadi hann — ad vera þeir, sem Guds vilja best þekkja. Hann vonadi nú ad geta feingid betri útskýríngu yfir þessi ord í samburdarstadnum hjá Páli postula (1 Kor. 1, 20. 21), og sletti honum þess vegna upp, og fann þar skrifad: "hvar eru þeir vitru? hvar eru spekíngarnir? hefur ekki Gud gjört speki þessa heims ad dármennsku?" Og í sama tón heldur kapitulinn áfram til enda, hvar þessi ord standa: "Jesús Kristur er af Gudi gjördur oss til visdóms." Nú sagdi hann med sjálfum sér: nei! postulinn brúkar hér víst of sterk ord; Jesús Kristur hefur ekki svoleidis talad um sjálfan sig; eg ætla ad snúa mér aptur til gudspjallamannanna, og heyra hvad hann sjálfur segir. Nú fann hann, hjá Jóh. 14, ad Jesús sagdi um sig: "eg er vegurinn, sannleikurinn og lífid; eínginn kemur til Fodursins, nema fyrir mig!" Nú spyr hann sjálfan sig: hvad merkir þad, ad koma til Guds? Víst mun þar med skilin vera öll líkamleg og andleg farsæld; því þad stendur á ödrum stad svo: "eg og Fadirinn erum eitt." Og aptur svo: "eg gef þeim eilíft líf!" og enn aptur þannig: "eg er kominn til þess, ad þeir hafi lífid og fulla nægd!" Nú komst hann í enn meira rádaleysi, ad skilja þetta; en þá duttu honum undir eins í hug efamál þeirra lærdu út af persónu vors lausnara, og hugsadi hann því: "hvad! en ef þessi ordatiltæki hafa ekki guddómlegt gyldi í sér? en þá rak hann undireins minni til: ad Gud sjálfur sagdi um Jesúm: "þessi er minn elsku-legur sonur; honum skulud þér hlýda!" og Jesús

sagdi sjálfur: "hver sem sér mig, sá sér Födurinn!" og Páll postuli segir, "ad í honum búi öll fylling Guddómsins líkamlega!" og Jóhannes segir um hann: "þessi er sannur Gud og eilíst líf!" En allra sterkust eru þó ord þau sem standa Es. 44, 6. samanborin vid þad, sem stendur Opb. 1, 18. (sem lesarinn gjöri svo vel og skodi). Þessi vesælings lærdi madur komst nú æ meir og meir í þraung, sem hann ekki gat greitt sig út úr, og þá féll honum undir eins í hug sá þánki: "málefnid er ekki um Krist, hver hann sé, heldur um rósemi og órósemi, gledi og hrygd. Eg ætla ad fara aptur ad leita ad þeim greinum, sem þar um höndla." Þá fann hann þau ord, sem standa 2. Kor 7, 10: "sú hrygd, sem er eptir Gudi verkar idran til sáluhjálpar, sem einginn idrast eptir, en þessa heims hrygd verkar dauda." Líka þessi ord: "Fridur Guds er ædri öllum mannlegum skilníngi." Og enn nú þessi: "Guds ríki er réttlæti, fridur og fögnudur í heilögum anda (Róm. 14, 17. Filipp. 4, 7.); líka þad sem stendur 2. Kor. 1, 3—5: "eins og vér höfum mikid af Krists píslum, svo verdum vér og líka ríkuglega huggadir fyrir Krist." Þar fyrir utan fann hann marga þá stadi í nýa testamentinu, sem létu hann öldúngis gánga úr skugga um þad, ad Frelsari vor og postular hans, hafi eingan veginn álitid, ad órósemi sálarinnar kæmi einasta af mat og drykk, og þó enn sídur sú sanna sálarrósemi af nokkru þess háttar. Nú tók sjálfur heimspekíngur þessi, ad verda mikid órólegur; en af því þad var sídla dags, gekk hann strax til sængur. En svefninn, sem opt hafdi ádur reynst honum velgjörandi, til þess ad reka burtu úr hjarta hans þá

óróſemi, hverrar hann ſtundum áður kennt hafði, þegar hann hafði forgefins reint til, að hrinda áſtæðum bibliutrúarinnar, — hann flúði nú frá honum, og ſál hans fylltiſt efa og óróſemi. Lokſins varð honum þetta að orðum: ó! hefði eg aldrei ſnert þá gömlu bibliu, hverſu rólegur hefði eg þá getað verið nú, þar eg í gær drakk ekkert kaffi, vann tvær ſtundir í garði mínum, og gekk ſíðan hingað og þángað mér til ſkemtunar, þegar það var búið, heilar 4 ſtundir. En rétt í því augnabliki, ſem hann hugſaði þetta, ſlugu eins og elding í gegnum ſálu hans þeſsi orð Kriſts: "rannſakið ritníngarnar, því þér meinið yður að finna í þeim það eilífa lífið, og þær eru það, ſem vitna um mig!" (Jóh. 5, 39). Og enn framar ſtóðu í þaunkum hans, ſem með glóandi ſtöfum ſkrifuð, þeſsi orð poſtulans: "en þó að vér, eður eingill af himni, prédikaði yður evangelium öðruvíſi enn vér höfum prédikað yður, þá veri ſá bölvaður! já eg ſegi aptur: veri hann bölvaður! (Gal. 1, 8. 9.)" Þetta gat nú ekki þeſsi vitríngur borið af, heldur, undir eins og dagaði, reif hann ſig á fætur, hljóp út á mörkina, og lagði nú á ſig tvöfalt erfiði meira enn áður, heimſókti ſíðan um miðdaginn góðvini ſína og bratt hnöttum á borði um kvöldið; en þetta var allt til ónýtis; ſú gamla biblía gjörði hann órólegan; og áðurſögð orð poſtulans: "veri ſá bölvaður og ſ. fr. v." brunnu rétt í hjarta hans. Já, hann æſkti nú, að hann kallað gæti aptur það vantrúar-rit, er hann hafði látið útgánga. Mitt í þeſsari góðu óſk ſofnaði hann lokſins útaf; en hann vaknaði ſljótt aptur, og þeir ſömu þánkar, ſem áður, brutuſt um í brjóſti hans; hann leitaði að hvíld, en fann ekki;

øll hans fyrri hughreysti og gladvæd var hreint burtu-flúin. Á þridja degi þar eptir kom sendimadur frá presti nokkrum til hans, þess erindis, ad hann skyldi snarlega til hans koma, því dóttir prestsins, sem var heitmey hans, lægi vid andlátid, og æskti, ádur enn hún dæi, ad fá tal af honum. Þetta vard honum rétt sem reidarslag, og hann vard hreint frá sér numinn; svo ádur enn hann gæti hrest sig svo upp, ad hann færi af stad, feingid sér hest til reidar, og komist á heimili prestsins, voru lidnur 24 kvalafullar stundir; en þegar hann loksins kom á heimili unnustu sinnar, var hún daud. Í ørvæntingarósköpunum kastadi hann sér þá yfir hid náfalda lík sinnar elskudu, og vildi rétt sem verma þad vid sitt hjarta. Nú gat øll hans heimspeki ekki aptrad honum frá, ad láta þau heimskuleigustu hugaráungurs-merki í ljósi, yfir líkinu, og enn sídur hindrad þad, ad hann sjálfur tæki í sig sjúkdóms-efni af þessu; því sú únga stúlka hafdi dáid af illa-artadri flekku-sótt; og þessi huggunarlausi úngi madur lagdist og svo nokkrum døgum þar á eptir í þessum skelfilega sjúkdómi, og komst í ýtrustu lífshættu. Presturinn — hvers teingdasonur hann hafdi vonad ad verda — var einn af þeim fáu, hverra kenninga høfud-innihald innifelst í meiníngu þessa alþekkta sálms: "Allt á sá Jesúm ásivin á, — audveldlega kann skilja sá, og s. fr." Hann bar bestu umhyggju fyrir þessum sínum sjúklingi, og lét hann ekkert þad bresta í sínu húsi, sem þénad gæti honum til líkhamans heilsubótar. En hann lét ekki þar med búid. Hans adalumhyggja var fyrir sálu þessa únga manns; og beid hann eptir hentugum stundum, þá hans líkamaþjáningar yrdu

svo sefadar, ad hinn sjúki gæti feingid frest til íhugunar. En þad gat ekki sked fyrr enn eptir nokkra daga lidna; því þá fyrst hættu þeir skelfilegu höfudórar nokkud, og útsláttur sá, sem sjúkdómi þessum fylgir, lét sig — eptir margar tilraunir læknisins — í ljósi. Sá aldradi madur sat hjá rekkju þess sjúka, og gætti ad ástandi hans med vidkvæmustu gaumgæfni. "Þú ert nú minn úngi vin! (sagdi hann loksins til hans), nærri sloppinn út af þeim skædasta háska sjúkdóms þíns, og sú mikla þjáning, sem þú ádur lidid hefur, held eg ad mætti gjöra þér rósemina æskilega; en nú get eg rétt lesid þad af þínu ángistarfullu yfirbragdi, ad þó ad líkami þinn hafi nokkra hvíld feingid, er sála þín þó stödd í óaflátanlegu ángistar-erfidi; æ mér þykir sárlega fyrir því! Eg elskadi ad sönnu mína sælu dóttur — ad vísu, ekki med sama fjori sem þú — en þó med eingu minni vidkvæmni; og missir hennar er mér ad vísu óbætanlegur. Í innsta grunni sálar minnar finn eg til ángurs út af missi hennar frá mér í þessu lífi, en eg tek þó med barnlegri hlýdni móti þessari þjáníngu af hendi míns elskulega Drottins. Gjördu nú eins, og stilltu hugskot þitt; því þér er nú meiri þörf á rósemd, enn læknismedölum." Ordlaus og rétt í órádi litadist nú sá úngi madur allt í kríngum sig, og stundi loksins fram þessum ordum: "æ þad er skelfilegt, skelfilegt, ad eg hefi misst hana, en þó er sá þánki mér enn nú skelfilegri, ad eiga þess aldrei von, ad sjá hana aptur, og þó á eg ad gjöra mig rólegan yfir því! hvernig skal eg ad því fara?" Út af þessu byrjadi samtal þeirra á milli, í hverju sá hógláti öldúngur komst smátt og smátt ad, hvad í

sálu þessa ógæfusama manns bjó, nefnilega: hversu hann efadist um allt, óttadist allt, og vissi alls eingin ráð til að hjálpa sér sjálfum út úr þessum naudum. Nú tók sá gamli gudsmadur, fullur af elsku og medaumkun, að prédika fyrir honum evangelium, og byrjadi, eptir dæmi síns Herra, á Móyses og spámønnunum, og lagdi út fyrir honum allar ritníngar, og sýndi honum ofan á: að þeirra upphaf, midpúnktur og endalykt, þeirra lærdómur, augnamid og uppfyllíng, væri óneitanlega falinn þar í: "að Jesús Kristur er í heim þennan kominn, synduga menn sáluhólpna að gjøra;" sem og í því: "að þar er í eingum ødrum hjálpræðid, og ekkert annað nafn mønnunum gefid, í hverju þeir geti hólpnir ordid, nema einúngis í nafni Jesú." Hér eptir tók hann að tala vid hann um þá andlegu reynslu, og sagdi þannig: "trúdu mér, minn son! ekkert er eins hættulegt og það, að byggja trúarbrøgð sín á tómum skynsemdarályktunum. Sú eintóma skynsemi nægir øldúngis ekki þar til; því það stendur skrifað 1. Kor. 1, 21: "að af því veraldin, í sínum vísdómi, þekti ekki Gud í hans vísdómi, þá hafi Gudi þóknast, fyrir fávíslega prédikun sáluhólpna að gjøra, þá sem þar á trúa;" já, þetta hefur þeim miskunsama Gudi svo þóknast, til að lægja á þennan hátt mannanna dramb, og þar med að setja þá fáfródustu og þá lærdustu á sømu troppu. Þetta ráð Guds er og til stærstu blessunar ordid mannkyninu; því hefdi Gud byggt lærdóm sáluhjálparinnar á skørpum skynsemdarályktunum, hvernig gat hann þá ordid þeim einføldu að notum? Hvernig hefdu, til dæmis, þeir vesælu Grænlendíngar, Lappafinnar, Negraþrælar, og adrir slíkir, getað fundid í

honum nokkra rósemi, huggun og sáluhjálp, þar þeir ekki hafa skynsemi, til að skilja myrkar og samankeðjaðar skynsemiskenníngar. En undireins og sá miskunsami Guð innleiddi þau trúarbrögð, sem á reynslunni byggð eru, þá geta þau orðið öllum jafnt til nota, svo vel þeim einföldustu, sem þeim vitrustu. En að Guð með evangelió hafi í raun og veru þvílík trúarbrögð innleitt, sýna, fyrir utan þær áminnstu ritníngargreinir, margar aðrar, eins þessi Jesú orð: "hver sem gjöra vill Guðs vilja, hann kemst að raun um, hvort minn lærdómur er af Guði, eður ekki (Jóh. 7, 17); líka svo þessi hans orð: "nema þér umvendist og gjörist sem börn, getið þér ekki komist í himnaríki; sömuleiðis: hver sem ekki meðtekur Guðs ríki, sem annað úngbarn, sá fær ekki inngeingið í það;" en nú vitum vér, að barnanna trú er byggð á tilfinníngu og reynslu, en ekki á skinsemi. Já, Jesús sjálfur sagði: "eg þakka þér Faðir, að þú huldir þetta fyrir spekíngum og vitríngum, en opinberaðir það smælíngjum, já sannarlega hefur það verið svoleiðis þóknanlegt fyrir þér;" því segir og Páll: "það sem heimskulegt er fyrir heiminum, það hefur Guð útvalið." Eptirtektavert er það líka, að vor blessaði Frelsari, þegar hann var hér á jörðunni, hafði litla umgeingni með þeim skriftlærðu, heldur sagði miklu framar um þá, að þeir væru blindir, jafnvel þó sjálfir þeir áliti sig sjáandi að vera; já, að þeir væru blindra leiðtogar; og sjálfir lærisveinar hans voru flestallir af ólærðu almúgafólki. Líka vitum vér, að einum meistara í Israel, nefnil. Nikódemusi, gagnaði allur hans lærdómur svo lítið til sáluhjálpar, að hann, í ráðaleysi,

neyddist til ad koma til Jesú á nóttu, og leita hjá honum uppfrædíngar í trúarbragdaefnum. Til þess nú ad veita honum hana, brúkadi Frelsarinn einga heimspekilega røksemdafærslu vid hann, heldur sagdi honum beint á fram: "ad hann hlyti ad fædast ad nýu, — þad er: verda allur annar madur enn hann væri, — ef hann vildi komast í Guds ríki. Þetta var þeim lærda manni óskiljanlegt; hann hélt, ad hann þyrfti eitthvad ad verka sjálfur, (meira enn barnid sem fædist), ef hann ætti sáluhólpinn ad verda; en hann hlaut, eptir Frelsarans rádum, ad verda framar lídandi enn gjørandi, ef þad ske skyldi; já madur hlýtur ad vísu med krossfestíngu holdsins, ad rýma — þad hann getur — hindrunum í burtu, en sjálft endurfædíngarverkid framkvæmir þó andi Guds, eins og náttúran, en ekki ljósmódurin, framkvæmir fædínguna. Og øll þau ord, sem Jesús brúkadi vid Nikódemus þar á eptir, sýna, ad allt, sem hér ad lýtur, geingur yfir skynsemina, og ad hún skilur ekki adferd Guds í mannsins endurfædíngu framar enn upptøk vindsins og endalykt; já, ad madur í þessu tilliti og ødru, er skyldugur til ad trúa Jesú lærdómi, þó hann skilji hann ekki, þar Jesús sjálfur er af himnum kominn med lærdóm sinn, já er undireins á himni og jørdu. Hver hans blessud ord, ásamt þeim, sem þeim eptirfylgja: "ad Jesús muni upphafinn verda, eins og eyrormurinn fordum, til þess, ad þeir sem á hann trúa skuli sáluhólpnir verda," eru hin allra huggunarríkustu, því þau innihalda skýrustu røksemdir fyrir Jesú guddómi og friðþægingu. O! ad þau ógleymanlega væru innrætt vorum hjørtum, þá mundum

vér finna næga hugsvølun í øllum vorum hørmúngum, mitt í því að vér lærum að heiðra Jesúm og tilbiðja hann, sem sannan Guð, en trúa á hann og elska, sem vorn friðþægjara. Taktu nú eptir þessu, minn kæri son! (sagði presturinn), og muntu reyna, þó ekki getir þú fullskilið, sannleikann í þessu máli. Þetta getur líka sannast af tali Jesú við þann ríka ýngismann, sem til hans kom, áhyggjufullur um sína sáluhjálp. Hjá þeim hálærðu Gyðinga meistur- um hafði hann ekki getað feingið samviskusrîðandi úrlausn þessarar spurníngar: "hvað skal eg tilgjøra, svo eg geti feingið eilíst líf?" og þess vegna bar hann það upp fyrir Jesú. Jesús vísaði honum að sønnu fyrst til boðorðanna, nefnil. að ef hann uppfyllt hefði Guðs løgmál, þá gæti hann hólpinn orðið. En sem þessi úngi maður þóttist hafa haldið þau, og spurði því, hvað sér gæti þá framar verið ábótavant, — þá sýndi Jesús honum ofan á, hversu raung hans ímyndan væri, að hann hefði boðorðin haldið, þó hann útvortis hefði siðsamlega lifað, og þó hann væri aldrei svo velkominn að eigum sínum; því þar hann elskaði þær ofmikið í hjarta sínu, þá gæti hann þessvegna ekki sáluhólpinn orðið, með øllum sínum dygðum. Hann hlyti því hreint að skilja sig við sín auðæfi; já, enn nú meira, hann hlyti að verða sinn lærisveinn, til að þekkja nokkuð einstakt, sem hann enn ekki vissi, til að verða sáluhólpinn. En þessum ráðum Jesú gat nú þessi ríki únglíngur ekki feingið af sér að fylgja, vegna elsku sinnar til þess tímanlega. Æ! svoleiðis er nú hætt við, að fyrir morgum gángi! Nei, vér hljótum endilega að gefa oss til Jesú eptir- fylgdar, og ekki einasta læra af honum að lifa vel,

heldur og svo, með trúnni á hann, fá hans aðstoð, til að öðlast Guðs náð, því hann segir sjálfur: "án mín fáið þér einkis orkað;" og svo mikið ríður oss á að halda oss til Jesú, að vér getum eingan veginn Guðs vilja gjört, svo Guði líki, ef vér ekki gjörum það verk: "að trúa á þann, sem hann sendi," (Jóh. 6, 29); því það er "Guðs vilji — sagði Jesús sjálfur —, að hver sem soninn þekkir og trúir á hann, skuli fá eilíft líf," og án þess maður gjöri þetta, er eilíft líf ófáanlegt. Af þessu sérðu nú, minn vin! (sagði presturinn framvegis) að vor trúarbrögð eru byggð á andlegri reynslu, en ekki á skynseminni einúngis; og þessa reynslu getur þú og allir feingið, sem það vilja alvarlega. Við þessi orð hrærðist þessi úngi — en þó hálfsturlaði — vitríngur mikillega, og varð að miklu leyti sannfærður um þeirra sannleika; sagði því, með þúngu andvarpi, til prestsins: ó minn heiðursverði faðir! æ segið mér nú, hvernig eg geti komist til þess, að öðlast þvílíka reynslu! segið mér, hvernig eg á að byrja það! Sá æruverði öldúngur svaraði: eg get á eingan hátt betur sagt þér það, minn vin! enn með því að skýra þér frómlega og einfaldlega frá, hvernig, í þessu tilliti, gekk til fyrir sjálfum mér, og eg vona þú getir betur af því lært, enn af fyrirskrifuðum reglum. Eg var, þegar eg var úngur, það sem menn kalla: dygðug manneskja; og eg hafði kostgæfilega rækt mínar bókmentaíðkanir, var kominn úr háskólanum, og átti nú að verða aðstoðarprestur hjá föður mínum. Eg var þannig ánægður með sjálfum mér yfir sálarástandi mínu. En einu sinni bar svo til, þegar eg las í nýa testamentinu, að orð postulans Páls í 3.

kapit. bréfsins til Rómverja tóku ákaflega á mig; þau hljóða svo: "þeir eru allir fráviknir, og allir saman ónýtir orðnir, þar er eínginn sem gott gjörir, og ekki einn (v. 12); þeir eru allir saman syndarar. (v. 22. 23)." Mér fundust orð þessi ofhørð, þar þau höfðu einga undantekníngu, og eg hugsaði, að hver sá, sem, eins og eg, gjört hefði margt gott um sína lífdaga, og ekki framið annað enn í mesta lagi eintómar breiskleikasyndir, gæti ómøgulega verið eins andstyggilegur fyrir Guði, eins og þjófar og morðíngjar; og þó sá eg, af orðum postulans, að það var þvert á móti. Nú leitaði eg að fleirum støðum í ritníngunni og grandskoðaði þá; en því meir sem eg rannsakaði hana, fann eg svo vel af dæmi þess ríka únga manns — sem áður var minnst á — og af eptirlíkíngunni um Farísearann og tollheimtumanninn, sem og af dæmi sjálfs postulans Páls, áður hann umventist, að ritníngin gjörir hér aldeilis eingan mun á, og, án minnstu takmørkunar, lýsir fordæmíngardómi yfir øllum, svo dygðugum sem ódygðugum, úngum, sem gømlum. Nú varð eg skelfilega órólegur út af þessu, þar eg sá, að øll mín dygðabygging var að velli løgð og niðurbrotin, svo eg lokfins æpti þessum bænarorðum (Ps. 139): "rannsakaðu mig Guð! og reyndu hjarta mitt, og sjáðu hvernig eg meina það"; æ Drottinn minn! eg vil þó ekki táldraga sjálfan mig! Sé eg andstyggilegur fyrir þér, og geti því ekki sáluhólpinn orðið, æ þá opna þú, Drottinn! augu mín, svo eg sjái, hvílíkur háski mér er búinn!" Meðan eg svoleiðis baðst fyrir, varð mér aptur litið á bibliuna, sem opin lá fyrir mér, og eg get ekki útmálað fyrir neinum þær tilfinningar, sem uppvøktust

hjá mér, þegar eg las orð þau, sem standa í Opinb. 3, 17, svo látandi: þú segir, eg em ríkur og hefi alls nóg og þarf einkis við; en þú veitst ekki, að þú ert vesæll og aumur, fátækur, blindur og nakinn.“ Eg varð aldeilis frá mér numinn, féll fram á jörðina á mitt andlit, og bað með grátandi tárum: æ Drottinn, miskuna þú mér, opinberaðu fyrir mér eymð mína, og hjálpaðu mér svo út af henni! Nú fór eg þessu fram daglega meir og meir, og andi Drottins sýndi mér, æ betur og betur, mitt hjarta, við ljóma síns heilaga ljóss. Eg fann þá, að í því dultist (sem eg ekki háfði áður þekkt) þótti og drambsemi, sjálfsréttlæti, fyrirlitning á öllum stærri syndurum, kærleiksskortur; að eg ekki tali um óteljandi forsómunarsyndir, og í náttúrunni liggjandi tilhneiging til allra lasta. Eg komst að raun um, að það var vart nema tækifærisskortur, að eg ekki, fyrir satans slægðir, hafði smámsaman afvegaleiðst frá svonefndum smáyfirsjónum til þeirra frekustu illverka. Nú fanst mér biblían hafa alla aðra meiningu, enn eg gjörði mér áður í hugarlund, og hún varð mér nú sem ný bók, áður ókunnug; nú komst eg útaf henni í skilning um það, að það var sú stærsta, já sem sú einasta synd (af því að allar aðrar syndir út af henni spretta), að menn trúa ekki réttilega á Frelsara heimsins, og þess vegna leitast heil. andi, nær hann kemur, fyrst af öllu við að sannfæra mann um hana, eins og Jesús segir hjá Jóh. 16, 9. Nú sá eg það allt betur og betur, að eg áður hafði að eins með vörunum kallað Jesúm herra, en ekki með lifandi trú á hann trúað; meiningin er: eg hafði ekki réttilega þekkt, því síður smakkað, hans ómræðilega elsku,

og þeſs vegna ekki elſkað hann aptur á móti, né gjört allt hvað eg hafði aðhafſt í hans nafni, og í tilliti til hans. Eg hlaut að játa með ſjálfum mér, að það gæti ekki heima hjá mér átt, ſem í ritníngunni ſtendur: að Kriſtur ſé allt og í öllum (Kol. 3, 11), og að Kriſtur lifi í mér (Gal. 2, 20); já, að ſú ſkelfilega ſynd mins óþakklætis við minn kroſsfeſta frelſara, væri mér óſyrirgefin (og þeſs vegna allar minar ſyndir aðrar undir eins); því hefði mín trú verið lifandi, af elſku til Frelſara míns, fyrir það, að hann, dýrðarinnar herra, var kroſsfeſtur mín vegna, þá hefði elſka ſú mátt náttúrlega koma mér til, að meta alla hluti ſem þrekk, hjá þeſsari yfirgnæfanlegu þekkíngu; og til að breyta eins og kaupmaður ſá, ſem fann þá koſtulegu perlu, fyrir hverrar ſkuld hann ſeldi allt hvað hann átti, til að geta eignaſt hana (Matth. 13, 46). Svo ſýndi þá þetta mitt ſkeitíngarleyſi og kaldſinni mér ofan á mína vantrú. En þar ſem eg undir eins ſá ljóslega, að það ſtóð í biblíunni, "það, að þér hafið trúna, er af Guði;" og "einginn kann til mín að koma (ſegir Jeſús), nema minn Faðir dragi hann;" ſömuleiðis: "biðjið, þá mun yður gefið verða!" — þá lét eg þetta upporfa mig, mitt í ſtærſtu ángiſt hjarta míns, til þeſs með brennandi bænaróþi að biðja, ýmiſt um fyrirgefníngu ſynda minna, ýmiſt um rétta lifandi trú; og þeſsu hélt eg áfram bæði nótt og dag. Loksins bænheyrði mig hinn mikli miſkunari. Á bleſsaðri nóttu, — mitt undir heitaſta hrópi eptir Guðs náð, urðu mér í minni ſálu, (án þeſs eg viſsi, hvar fyrir heldur þá, enn endrarnær), þeſsar báðar greinir úr heilagri ritníngu, að anda og lifi; ſú fyrri var þeſsi: "eg afmái þínar ſyndir

fyrir mína skuld" (Es. 43, 25). En sú síðari þessi: "Blóðið Jesú Krists, Guðs sonar, hreinsar oss af öllum vorum syndum" (1. Jóh. 1, 7); og mér fanst undireins, rétt eins og blóð þessa Guðs lambs streymdi yfir sálu mína; já, mér virtist sem eg sæi í anda sár þess opin fyrir augum mér, og eg hrópaði því upp sem Tómas forðum: "æ Drottinn minn og Guð minn!" og þannig innilega rétt sem gegnumþreingður, styrktur og huggaður, fullviss um á hvern eg trúði, fullur af blygðun og fögnuði, fátækur í sjálfum mér, en ríkur í Guði, ofurseldi eg, með lofgjörð og þakklæti, allt mitt hjarta Guði og mínum Frelsara. Nú sann eg, hvað þau orð Davíðs (Ps. 119, 32.) hafa að þýða: "þegar þú huggar mitt hjarta, þá hleyp eg veginn þinna boðorða;" því nú uppkviknaði í mér undireins heit elska til allra manna, og hjartanleg laungun til að geta áunnið sálir Jesú til handa, og þar með framkvæmt hans vilja. Því nú hafði hann sjálfur sætt mig að nýu, hans lögmál var skrifað í mitt hjarta, og mig lángaði til að gjöra hvað honum þóknaðist. Eg hugsaði nú ekki né óskaði, sem áður fyrri, þegar eitthvert líkamlegt ánægjuefni frambauð sig: ó að þetta eður hitt ekki væri móti Guðs vilja, þá vildi eg gjarnan leyfa mér það, til eptirlætis, rétt einu sinni! — heldur hugsaði nú hin "nýa skepna," sem eg orðinn var: eg hefi viðbjóð á öllu því, sem ekki ber mynd hans, á öllu því, sem eg ekki er viss um, að sé vilja hans samkvæmt. Skömmu eptir að þetta var nú sleð, var eg vígður, og settur til aðstoðar föður mínum; og nú hélt eg ekki framar fyrir tilheyrendum mínum líflausar ræður, — samansmíðaðar af lærðum útskýríngum og siða-

lærdómi, — eins og eg hafdi ádur látid mér nægja, þegar þær ad eins innihéldu eingan villulærdóm, hvad þurrar sem þær annars vóru, — heldur framsetti eg nú þær greinir úr heilagri ritningu, sem helst auglýstu fyrir mínum tilheyrendum sálarástand þeirra, og sem vísudu þeim á þad medal og máta, med hverju þeir gætu þad betrad; mitt í því, ad eg med brennandi kærleika sárbændi þá í Krists stad: "ad láta sætta sig vid Gud!" (2. Kor. 5, 20). Eg vissi nú af reynslunni, hvernig sannkristinn madur er, og á ad vera til sinnis, sem og einnig þvert á móti, hvernig idrunarlaus syndari er. Eg vissi og líka, hvernig menn eiga ad fara ad byrja þad, ad leita sér nádar hjá Gudi; svo og líka hvílíkar tilfinníngar sá til nádar tekni hefur og hlýtur ad hafa; hvernig madur á ad fara ad því, ad fylgja sínum Frelsara eptir, og hvernig madur á ad fá krapt til þess, ad gjøra sína skyldu fúslega, med gledi, en ekki med þvingun. Eg varadi mig nú vid, ad misbrúka þá mælsku, sem mér — ásamt líflegum ímyndunarkrapti — medfædd var; og í stad þess ad leita hróss hjá mínum tilheyrendum med spaklegum álytunum, og snillilegum mælskublómum, sem fylla heilann, en eptirskilja hjartad tómt, kitla tilfinníngarnar, en vekja lítt viljan, og hverra ávøxtur varir því opt ekki degi leingur, — þá leitadist eg, í mestu audmýkt, vid, ad fylgja ordum þess lærdasta og málsnjallasta af øllum postulunum, þegar hann segir um sig: ad hann ekki brúkad hafi, í kenníngum sínum, háleit snildarord, svo Krists kross yrdi ekki til minkunar (1. Kor. 1, 17), — og bar mig ad prédika med grundudum, en

þó einfölduin orðum, í þeirri vissu sannfæríngu: að það orðið krossins, — sem er guðlegur kraptur og guðlegur vísdómur, — ekki þyrfti þess við, að eg prýddi það utan með nokkrum skynsemdar- og málsfegurðarbúníngi, til þess það gæti brætt þau hörðustu hjörtu eins og vax, og auðmýkt þá sérvitru hádfugla. Svoleiðis gekk það nú til fyrir mér framvegis, en þó ekki allt af í þeim sama elskunnar hita, sem í upphafi. Þar komu ýmsar umbreytíngar á. Eg missti stundum — að mér fanst — minn guðdómlega vin úr hjarta mínu; hann var mér ekki allt af — að minni tilfinníngu til — jafnnálægur; og eg lærði, fyrst, hvað af hverju, í skóla heilags anda, hversu maður á að fara að því, að halda honum í sínu hjarta, nefnil. að maður daglega, og svo opt sem sú meðfædda spilling í oss hreifir sér, láti heil. anda hreinsa sig með hans blóði, að nýu, af sínum syndum, hrösunum, ástríðum og yfirsjónum, já af sínu kaldlyndi og ótrúskap við hann; barmi sér og kvarti, mitt í sárheitri iðrunar-bæn, sífelt yfir böli sínu, fyrir honum; hafi hann með sér í öllu því, sem maður fyrir sig tekur, og sleppi honum ekki eitt augnablik vísvitandi úr hjarta sínu, eður frá síns innra manns augum. Eg fann með sjálfum mér, að það reið allt á því, að eg lærði réttilega að trúa á minn Drottinn og Frelsara, og að þekkja hann sem minn sannan Guð, og svo að verða sannfærður um það, að eg, af hans náðar fyllíngu, þyrfti um tíma og eilífð að fá alla mína þörf uppfyllta; að eg hlyti því að finna til hans óútskýranlegu elsku til mín í mínu hjarta, og aptur á móti elska hann sjálfur af innsta grunni; og þegar svo er ástatt, þá framkvæmist allt gott, rétt sem af sjálfu sér; því þegar sálin verður, fyrir elskuna til hans, eins og uppfyllt af honum sjálfum, verður hún honum svo innlifuð, að hans boðorð finnast henni þá ekki þúng, heldur þar á móti hans ok sætt og hans byrði létt, og þá veitir henni hægt að varast að styggja hann vísvitandi. En mitt í þessu mega menn þó aldrei gleyma höfuðatriðinu, sem er að þekkja vorn eiginn vanduguað, svo vel í

tilliti til skilníngsins, sem viljans og kraptanna; því í tilliti til skilníngsins stendur skrifað: "náttúrlegur maður skynjar ekki það, sem Guðs anda er, því það er honum sem heimska." Í tilliti til viljans, segir Jesús: "einginn getur til mín komið, nema minn Faðir dragi hann." Og í tilliti til kraptanna segir Páll: "einginn getur Jesúm Drottinn kallað, nema fyrir heilagan anda." En Guði sé lof! gegn öllu þessu gefst næg huggun, því Drottinn Jesús sagði sjálfur: "ef að þér, sem vondir eruð, kunnið að gefa börnum yðar góðar gáfur, hversu miklu framar mun Faðirinn á himnum gefa þeim heilagan anda, sem hann um hann biðja?"

Þegar nú sá æruverði öldúngur hafði þetta mælt, gekk hann burtu úr húsinu frá þeim sjúka, og skildi við hann um hríð, svo hann feingi tíma og tækifæri til eigin eptirþánka. Sá úngi maður — jafnvel þó hans líkama sjúkdómur yrði ekki aptur svo hættulegur, sem hann áður var — komst nú út af þessu tali inn í nauðsynlega og ávaxtarríka sjálfsprófun, svo hann gjörla þekkti sitt sálarástand, og það "eina nauðsynlega," sem hann áður vantaði. Hvar fyrir hann — eins og hans aldraði vinur — komst á sama hátt, sem hann komist hafði, til að ná rósemd sálar sinnar. Og ekki laungu þar á eptir var hann kallaður til þess heilaga embættis, sem friðþægínguna prédikar; og þá lét hann, með fögnuði, opinberlega í ljósi þá postullegu viðurkenníngu: "Eg hélt mig ekkert annað að vita, meðal yðar, nema einúngis Jesúm Kríst, þann sem krossfestur var!"

---

Af þessari frásögu má margt til íhugunar taka:

1) að ofurfrek eptirsókn veraldlegra vísinda og traust á sinni eigin skynsemi og lærdómi getur vakið hjá manni bæði leiðindi og fyrirlitníngu á hinum einfalda sanna kristindómi; enda hafa og hjá þvílíkum uppkomið stundum þeir verstu villulærdómar í heiminum.

2) að til að vera góður prestur nægir því eingan veginn mikill lærdómur, vitska og málsnilli, heldur verður þar með að fylgja, já yfirhönd að hafa, — sönn lifandi trú á Jesúm Krist, samt hrein elska til hans og hans safnaðar.

3) að dygðugt líferni útvortis er eingan veginn óhult merki sannarlegs kristindóms, sem innifalinn er í daglegri iðrunar- og trúar-fullri bænrækni fyrir Guði, ásamt ástundan hans heil. orðs, og deyðíngu þess gamla manns innvortis, en lífgun þess nýa.

4) að það er ekki nóg að vita það og játa, að maður sé syndugur, heldur verður maður að sárfinna til síns syndasjúkdóms með sönnu iðrunarángri, og með lifandi trú leita sér lækníngar við honum hjá Jesú Kristi.

5) að útvortis sjúkdómur, eður annað mótlæti, getur opt orðið ágætt styrktarmeðal til að uppvekja hjá manni tilfinníngu síns andlega syndasjúkdóms fyrir Guði, og þess vegna er það miklu framar velgjörð enn straff, þegar hann leggur það á, í því tilliti.

6) að það er stór lukka, að eðlast trúlyndan og duglegan vegvísara, þegar maður þekkir villu síns vegar, og að eptirdæmi sannra guðsbarna — sem umvenst hafa — geta þá orðið til stærstu uppbyggíngar.




Kaupmannahöfn 1854. Prentað hjá S. L. Möller.